# Stuttur Leidarvisir

til

# ávaxtarsams Biblinlesturs.

Ritadur á Dønsku

af

Dr. N. Møller,
Biskupi yfir Lágalands og Falsturs stipti,
Riddara af Dannebrogsordunni og Dannebrogsmanni.

Snúinn á Íslenzku

af

Benedict Þórarinssyni,
Sóknarpresti til Dysjarmýrar og Njardvíkur safnada.

Kaupmannahøfn.
Prentadur hjá P. N. Jorgensen.
1 8 3 7.

# Til Lesarans.

Þegar eg fyrst las þann bækling, sem hér kémur þér, kæri lesari! fyrir sjónir, fannst mér innihald hans svo mikilvægt og dýrmætt, ad eg strax óskadi ad sem flestir gæti séd hann og lesid óumbreyttann í módurmáli sínu, því þaraf þókti mér góds von, og jafnframt kviknadi hjá mér laungun til ad snúa hønum á Islenzku, og láta hann svo á prent útgánga, þar eg gat' ecki efast um ad hvør sá, sem vill elska og adhyllast Guds sáluhjálplega ord, mundi álíta hann miklu meira verdann, heldurenn andvirdi þad sem hann yrdi seldur fyrir. Eg hefi því, í þeirri von, ad eitthvad gott mundi þaraf leida, uppfyllt þessa laungun mína eptir sem eg bezt gat, og fel þeim sem allt gott géfur ad blessa og ávaxta þessa velmeintu vidburdi mína.

Hvad útleggínguna áhrærir vona eg ad meiníngin hafi ecki til muna raskast eda aflagast; en ef málid vera kynni ecki sem hreinast á einstøkum stødum, bid eg lesarann gódfúslega ad virda þad á betra veg; sé adeins eckért þad ad finna í útleggíngunni, sem er óskiljanlegt edur ásteitíngarverdt, mætti þetta ágæta Rit engu ad sídur fá verkad þá tilætludu nytsemi, og þá fengi eg ósk mína uppfyllta, en mitt litla ómak vel launad.

B. Þórarinsson.

Þareð Presturinn Sira Benedict Þórarinsson, sem af kjærleikselsku til landa sinna hefir snúið þessum gullvæga ritling á íslenzka túngu, hefir mælst til, að eg vildi takast á hendur útgáfu hans, og þareð eg vissi að ritkorn þetta bæði var sérlega vel samið, og efni þess svo vigtugt, gudrækilegt og hjartnæmt, að það ætti og mætti vera serhvørjum manni gèðfelt, og líka svo audskilið og vel lagað eptir alþýðu þørfum, að hinn einfaldasti gètur lesið það sér til uppbyggíngar: svo hefi eg með sannri ánægju fullnægt Prestsins ósk, og læt hérmeð ritlíng þenna á prent útgánga, í von um, að allir gudrækilega sinnaðir Landar muni taka fegins hendi móti hønum og lesa hann iðuglega sér til sannrar uppbyggíngar. Høfundur ritlíngsins er hinn sami nafnfrægi gudfræðismaður, sem skrifað hefir Leiðarvísirinn til að lesa hið N. T. með gudrækni og greind, og sem eg átti þátt í að snúa á íslenzka túngu árin 1822—23; var høfundurinn, þá hann skrifaði bæði þessi rit, Sóknarprestur til Kjøbeløvs- og Vindeby's-safnaða, en síðan er hann orðinn Biskup yfir Lágalands og Falsturs stipti. Engin gudfræðisrit hafa náð þeirri hylli hjá enni dønsku þjóð sem þessa manns, og mun það koma af því, að þau bæði eru svo audskilin og hjartnæm, og votta þaraðauki kristilegt hugarfar og óhvikula lotníngu fyrir heil. Ritníngu, og efla hvørttveggja hjá lesaranum; hvað eg einnig vona og óska að ritlíngur þessi muni gjøra.

**Þorgeir Guðmundsson.**

Enþótt ad Gud einninn tali til vor gégnum náttúruna, sem er hans verk; enþótt vér ogsvo þar eigum ad veita eptirtekt hans heiløgu raust, þá er þad samt víst, ad Gud talar enn útþryckilegar og ljóslegar til vor í sínu opinberada ordi. Vér gétum merkt eins manns sinnislag og tilgáng, þegar vér sjáum þær nidurskipanir, sem hann hefir gjørt í sínu húsi; en þegar hann segir þjónum sínum, med berum ordum: þetta er minn vilji, þad skulud þér gjøra í mínu húsi, og þessi laun hefi eg ákvardad ydur, þegar þér vikid úr minni þjónustu; þá vita þeir þó enn betur hans vilja. Og þannig talar Gud til vor allra í sínu opinberada ordi. Hér hefir hann kunngjørt oss, hvørsvegna hann hafi sett oss á þessa jørdu, hvad vér eigum ad gjøra til ad þóknast hønum, og hvørs vér þá høfum ad vona, þegar vér skiljum vid þennan heim; og þessa hans raustu géta allir, einninn sá einfaldasti skilid, allteins og sonurinn skilur ord fødur síns, og þjóninn síns húsbónda.

Vér eigum því ad sameina hvørutveggja þessa Drottins leidsögn; vér skulum veita eptirtekt hans raustu í náttúrunni, en þó einkanlega gèfa gaum ad því sem hann talar til vor í þeirri heil. Ritningu. Jesus býdur oss, (Matth. 6, 26): Gætid ad fuglunum í loptinu! Skodid akursins liljugrøs! Þó sagdi hann optar: Heyrid mín ord! Eg er ljós heimsins; hvør sem eptirfylgir mér skal ecki ráfa í myrkrinu*). Og þetta ljós, sem hann hefir kveikt oss, hvar finnum vér þad fullkomlegà hreint og skært nema í þeirri heil. Ritningu? Og ímindadu þér aldrei, minn kristni medbródir! ad þessi Drottins raust, sem í Bibliunni talar til þín, sé einúngis skiljanleg þeim lærdu! Nei, einnig sá lærdi hlýtur ad verda sem barn, ef hann á ad géta skilid Jesu lærdóms háa einfaldlegleika; einnig hann hlýtur ad kannast vid ad hann er andlega voladur, þad er: hafa tilfinníngu af því, hvørsu sárþurfandi hann er fyrir Guds ord, ef hann á ad géta gripid þá ædri opinberun, sem þad inniheldur. Ef sá lærdi er upphrokadur af sínum egin vísdómi, þá mun þad verda hulid fyrir hønum sem er opinbert einfeldníngnum; en sé þaramót audmýkt sameinud lærdóminum, þá er hann ad vísu þénanlegur til ad upplýsa þad sem í Bibliunni er þúngskilid, og ecki gétur ødruvísi verid, fyrir þá orsøk ad hún er svo gømul bók. En hennar eiginlega innihald gétur þó hvør gudlega sinnadur leikmadur skilid, allteins vel og sá lærdi, því þetta er

*) Matth. 7, 24. Luc. 6, 47. Jóh. 5, 24. 12, 47. 8, 12.

oss ecki opinberad af mannlegum visdómi, heldur af Guds Anda. Sá lærdi gétur sagt oss ýmislegt um sólarinnar áskomulag, hvad lángt hún er frá jördunni, og svofr. en sá einfaldi gétur, eins vel og hann, haft leidarvísir af sólarinnar birtu og endurnærst af hennar hita. Þannig géta þeir lærdu einnig sagt oss mikid um þad túngumál, um þá tíma og stadi, á hvørjum þær heilögu bækur (Ritníngarinnar) eru skrifadar, sem þeir ólærdu ecki vita né skilja; en þad ord hins eylífa lífs, sem Ritníngin inniheldur — þessi Rádar-Sól — gétur allt eins vel sendt sína blessunarríku geisla inní sálu hins einfalda, sem hins lærda. Sá høfud-eiginlegleiki sem allir þeir ed lesa Biblíuna, lærdir sem ólærdir, þurfa ad hafa til ad bera, ef Guds ord á ad verda þeim til uppbyggíngar, er þessvegna Audmýktin. Hana heimtadi Jesús af øllum sínum tilheyrendum, (til dæmis hjá Matth. 11, 25.) og hana heimtar Biblían en nú af øllum þeim sem hana lesa. Og hvørt sem vér spyrjum: hvør hafi géfid oss Biblíuna; edur: til hvørs hún er oss géfin; þá sjáum vér strax, ad Audmýktin er sá fyrsti og naudsýnlegasti eiginlegleiki hjá þeim, sem lesa hana, því hún er sá skilmáli, án hvørs vér ecki gétum haft þá sonarlegu trú á Gudi og hans ordum. Sá lærdómur, sem Biblían inniheldur, er ecki af mønnum uppfundinn, heldur er hann oss opinberadur af Gudi; hann er þad, sem hér talar til vor og kunngiørir oss sín fødurlegu rád til vorrar sáluhiálpar. Um þetta høfum vér Guds eiginn vitnisburd, þegar hann op-

inberadi sig oss í sínum Syni Jesú Kristó; því, að Gud var í hønum, taladi og verkadi med hønum þannig, að hans ord voru Guds ord og hans verk Guds verk, það hefir Jesús sannad, þegar hann sýndi sig sem þá persónu, er øll fedrunum gésin fyrirheit áttu fullkomlega heima hjá: þegar hann í vina og óvina augsýn gjørdi guddómleg kraptaverk: þegar hann, eptir krossins dauda, uppreis endurlifnadur úr sinni grøf: þegar hann med sínum 12, í heimsins augum svo veiku, en med krapti af hædum útbúnu vottum, útbreiddi sinn nádar-lærdóm um heiminn, þrátt fyrir alla mótstødu myrkranna ríkis; og þetta sannar hann enn í dag, þared hans kyrkja ásókt af svo mørgum og mektugum óvinum hennar, hefir stadid stødug um margar aldir, og stendur enn nú eptir hans fyrirheiti hjá Matth. 16, 18. án þess ad helvítis makt fái henni raskad.

Já, viljir þú, kristinn madur! fá hina sterkustu røksemd fyrir Jesú lærdóms guddómlega uppruna, þá røksemd sem engin efasemi gétur hrundid, þá fylgdu Jesú eptir á þeim vegi, sem hann hefir vísad þér á; og þegar þú þá sjálfur reynir hvørsu Jesú Evangelíum megnar að forlíka þig vid Gud, betra þitt hjarta, hugga þig í hørmum þínum og stadfesta von eylífs lífs í þinni sálu, þá muntu vidurkénna med Postulanum Páli (Róm. 1, 16) ad „það er kraptur Guds til sáluhjálpar sérhvørjum sem trúir;" þá muntu finna sannleika þess, sem Jesús vottar hjá (Jóh. 7, 17): „Ef nockur vill gjøra vilja þess, sem

mig sendi, hann kémst ad raun um hvørt lærdóm-urinn er af Gudi, edur eg tala af sjálfum mér." An þess vér høfum í voru hjarta þennann pant uppá Jesú lærdóms guddómlega uppruna, nota oss eckért adrar røksemdir þess, hvørsu sterkar og óbrækar sem þær eru í sjálfum sér, vér látum oss þá feykja af sérhvørjum lærdóms vindi. En hafir þú, kristinn madur! sjálfur reynt Jesú Evangelii krapt í sálu þinni, þá stendur þín trú stødug í øllum áhlaupum, þá mun enginn spottari fá svipt þig þeirri hjartans sannfæringu, ad Jesús er oss af Gudi gésinn til vis-dóms, rettlætis, helgunar og endurlausnar. Bygg því trú þína á Jesú Kristó; og þegar þú veizt ad hans ord er Guds ord, þá veizt þú líka ad Spá-mennirnir, sem spádu um hann, og Postularnir, sem vitnudu um hann, kunngjøra oss Drottins ord; því Kristúr er høfud-innihald allrar Biblíunnar, hyrn-íngarsteinninn sem øll byggingin hvílir á. Spámenn-irnir tala um hann sem koma skyldi, einsog Postul-arnir um hann sem þá kominn var, og sjálfur hefir hann stadfest bædi hinna og þessara ord. Um Spámennina segir hann (Jóh. 5, 39): „Þessir eru þad sem vitna um mig;" og ad Postularnir, sem medtóku hans Anda, hafi kunngjørt oss Drott-ins ord, þarum gétur einginn sá efast sem trúir á Drottinn sjálfan.

Sé þad því sjálfur Gud sem talar til vor í heilagri Ritningu; sé þad sá heilagi sem hér talar til syndaranna; manneskjanna Fadir, sem hér opin-berar sínum børnum þad, sem þau voru svo sárþurf-

andi fyrir ad vita, og sem vér, án hans nákvæmari upplýsíngar, aldrei hefdum gétad vitad med vissu; ber oss þá ecki ad heyra hann med auðmjúkum hjörtum, med heilögum virdíngarfullum ótta og sonarlegu trúnadartrausti? Eda hvör veit rétt ljóslega, til hvörs vér erum komnir í þennann heim, nema Gud, sem hefir sett oss í hann? Einúngis sá eingétni Sonur Guds, sem er í Födursins skauti, gat opinberad oss þad, (Jóh. 1, 18), og hefir opinberad oss þad. Hvör getur upplýst þad myrkur, sem hvílir yfir gröfum framlidinna, nema sá alvísi sem sér útyfir tímans takmörk inní eylífdina? „Því enginn uppstígur til himins nema sá sem ofansté af himni, Mannsins Sonur sem er á himni" (Jóh. 3, 13). Hvör gat sagt oss, hvörnin vér syndararnir skyldum forlikast vid Gud, nema Gud sjálfur hinn heilagi, hvörs óvinir vér med syndinni höfdum gjörst? En til ad finna þessa vora sáru þörf fyrir guddómlega opinberun, útheimtist Audmýkt. Sá drambsami finnur ecki, og gétur ecki fundid til hennar; en sá audmýktarfulli þenkir þannig: Gud hefir haft og hefir ennú óteljandi fjölda barna ad bera umhyggju fyrir, og á þeirra andans fullkomnun er óendanlegur mismunur: þad sem eg ecki gét gripid kann annar betur gáfadur ad fá skilid; eg skil þad sem eg þarf med, og þar fyrir vil eg þacka Gudi; og þegar eg hefi Guds ord kostgæfilega um hönd med andakt, upplýsist skilníngur minn meir og meir. Vér finnum í Bíblíunni leyndardóma, sem yfirgánga mannlegann skilníng til d: „ad Gud var í Kristo." Sá

drambsami segir: þetta skil eg ecki, það er því ecki satt; sá auðmýktarfulli þenkir þarámót þannig: eg megna ecki svo mikið sem að þeckja sjálfan mig, mína eigin sálu, hvörnin skyldi eg þá vænta að géta útgrundað hinn óútgrundanlega? Vér finnum í Biblíunni frásögur um furðuverk. Sá hofmóðugi þenkir þannig: slíkt hefi eg aldrei séð, það getur því ecki satt verið; en sá auðmýktarfulli, sem finnur þörf sína fyrir guddómlega opinberun, íhugar einnig, að ef trú vor á slíka opinberun skyldi verða staðföst, þá hlaut Guð að opinbera sig oss með ósiðvanalegum atburðum. Hvör fær þá ecki hæglega séð, að auðmyktin er hinn fyrsti eiginlegleiki hjá réttkristnum Biblíulesara? Þó finnum vér enn betur hvörsu þessi eiginlegleiki er nauðsýnlegur, þegar vér aðgætum í hvaða tilgángi Guð hefir gefið oss þá heil. Ritníngu.

Til hvörs er oss gefin Biblían? Hún á að vera oss minnismerki um Guðs heilögu nærveru meðal sinna barna, og hvörsu föðurlega hann hefir lempað sig eptir breiskleika þeirra. Vér sjáum Guð einnig í náttúrunni; vér heyrum þar einnig hans raustu; en manneskjan er breisk og holdlega sinnuð skepna; henni er svo hætt við að gleyma þeim ósýnilega Guði. Þetta kénnir oss giörvöll mannkynssagan.

Guð opinberaði sig fyrir þeim fyrstu mönnum, sem þeirra skapara og viðhaldara, sem þeirra löggjafara og dómara. En hvörsu skjótt varð ecki ljósið undirþryckt af myrkrinu! Þeir gleymdu þeim sanna

Gudi; þeir nidursøcktu sér í vidbjódslega afguda-dýrkun og tilbádu sképnurnar í stadinn fyrir Skaparann. Gud miskunadi sig því yfir sín villuráfandi børn; og þegar spillingin fèck yfirhønd, fráskildi hann sér eitt fólk á jørdunni, nefnil. Israelsfólk, til ad vidhalda hjá því sannleikans ljósi med sínni undrunarfullu forsjón, þartil sú tímans uppfylling kom, ad þetta ljós forklárad gæti útbreidst um allan heim. Gud opinberadi sig þessvegna frumfedrum þessa fólks; hann opinberadist þeirra ríkis-stiptara Móses og þareptir Spámønnunum; en einsog einn forsjáll fadir, sem í undirvísun barna sinna smámsaman leidir þau til fullkomnari þeckingar, gaf hann þeim ecki allt í einu þad skæra ljós, heldur setti hann þad sem lampa á myrkum stad, og þegar þad lengi sídan hafdi meir og meir tendrast, upprann þad heiminum loksins, sem hin fagra middags-sól, í hans Syni Jesú Kristo. Sé þá Biblían ein ævarandi vitnisburdur um manneskjunnar breiskleika, og um þad, hvad fødurlega Gud hefir lempad sig eptir vorum breiskleika; ber oss þá ecki med sonarlegri audmýkt og þacklæti ad færa oss í nyt þessa Guds nákvæmari leidsøgn til vorrar sáluhjálpar?

Biblían er oss géfin til ad styrkja vora trú á Forsjónarinnar vísu og fødurlegu stjórnun yfir lífskjørum vorum. Vér sjáum hér afmálada fyrir vorum augum Guds máttugu vernd bædi yfir gjørvallri hans kyrkju, og líka yfir sérhvørju hans barni útaf fyrir sig. Ef sá efasemdar þánki uppkémur í

sálu þinni, kristinn madur! mun sá allrahædsti eylífi Gud hyrda um manneskjurnar, sem eru dupt og verda aptur ad dupti? Lærdu þá af heil. Ritningu hvad mikid Gud hefir gjört fyrir mannkynid, þá muntu sjá og finna hvad mikils þad er verdt, ad þú ert manneskja; þú munt þá upphrópa med Davíd (8, 5. samanb. Hebr. 2, 6): „Hvad er manneskjan — hvörsu há er hennar ákvördun — þared þú, ó Gud, minnist hennar! og manneskjunnar barn, þared þú ber umhyggju fyrir því!" Efad spillingin í Jesú kyrkju uppvekur efasemi í hjarta þínu, les þá, kristinn madur! heilaga Ritningu, þá mun ángur þitt og efasemi dvína. Hvörsu ílla áhorfdist ecki med Guds kyrkju á Nóa, Abrahams og Elíass dögum! Hvílíkt villumyrkur drottnadi ecki á jördunni, þegar Jesús kom í heiminn! Og hvönær var sannleikans ríki nær eydileggíngu, fyrir manna sjónum, enn þegar Jesús héck á krossinum! Én sannadist ecki alltíd þad gamla máltæki: „þegar neydin er hærst, þá er Guds hjálp nærst." Vér skulum því aldrei efast um sannleikans sigur yfir lýginni, því ljósanna Fadir lifir eylíflega; og Jesús er hinn sami í gjær og í dag, og um alla eylífd (Hebr. 13, 8). Sértu áhyggjufullur, minn samkristni! um lífskjör þín edur vina þinna, þá les þú sögu Abrahams, Jósephs, Davíds, Jóbs og annara fleiri; þar fær þú ad sjá, ad Gud hefir opt sett sínum börnum þúnga reynslu, og opt leidt þau um þyrnafulla vegu; en aldrei hefir hann látid neinn þann til skammar verda, sem reiddi sig uppá hann. Og, er ecki Gud alltíd hinn sami?

Biblían er oss gèfin til at vekja og stadfesta von þess eylífa lífs í vorri sálu. Vèr finnum ad sønnu, þegar vèr veitum eptirtekt þeirri røddu, sem talar í vorum hjørtum, ad vèr erum skapadir til eins ædra enn þessa forgengilega jardneska lífs. En vèr adgætum ecki alltíd svo vel sem skyldi þennann vorn innvortis dómara. Vèr elskum ofmikid heiminn og heimsins ágæti. Kvídablandin efasemi og þrælsótti fyrir daudanum og grøfinni hrellir þá holdlega sinnudu manneskju, þegar hún hefir eckért ædra vid ad stydjast, enn sína eigin krapta. Einninn þetta sjáum vèr af allri mannkynsins søgu. Gud miskunnadi sig yfir þá breisku mannskèpnu; hann vildi ecki ad vèr skyldum „af ótta fyrir daudanum lifa undir ánaudar-oki alla vora lífstíd" (Hebr. 2, 15). Hann vildi ecki ad vonin um eitt betra líf skyldi veiklast hjá oss, sú von sem á vorri jardnesku pílagrímsferd er oss svo ómissandi. Hann gaf oss í sínu ordi stadfasta og vissa ástædu fyrir vorri von. Þeir trúudu fedur jafnvel á gamla Testamentisins tídum, huggudu sig þarvid í þeirra útlendíngskap; þeir álitu sig sem gèsti og framandi á jørdunni, ecki einúngis í tilliti þess jardneska fødurlands sem þeir høfdu yfirgèfid; nei, „Abraham vænti þeirrar borgar, er fastann grundvøll hefdi, hvørrar smidur og byggíngar-meistari sjálfur Gud er," (Hebr. 11, 7). Og þó var þetta nú einúngis vonarinnar fyrsti morgunrodi. En þegar Jesús kom, dvínadi øll ángistarfull efasemi, því hann gjørdi daudann ad engu og leiddi lífid og óforgengilegleikann í ljós, med sínum

náðarlærdómi (2 Tim. 1, 10). Skyldum vér þá ecki með sonarlegri gleði og þacklæti til Guðs, halda oss við orð þess eylífa lífs, til að næra og upplífga þessa sælu von í vorum hjörtum?

Biblían er oss gèfin til að kunngjöra oss Guðs vilja, svosem reglu þá, eptir hvörri vér laga eigum vort hugarfar og liferni. Guð hefir skrifað sitt lögmál í vor hjörtu. Jafnvel heidíngjar þeckja og finna það, „þareð þeirra samvizka ber þeim vitni, og þeirra þánkar sem ásaka eður afsaka þá innbyrðis" (Róm. 2, 15). En manneskjan er af náttúrunni lauslynd og breisk, henni er svo hætt við að gleyma því lögmáli, sem Guð innprentaði í hennar hjarta; og holdlegar fýsnir og veraldlegar girndir gjöra hana svo opt daufheyrða við skyldunnar raustu; þessvegna gaf Guð oss sitt opinberaða orð, til að vekja og gjöra kröptugri samvizkunnar raustu. Hér talar sjálfur löggjafarinn til vor og segir: þetta skaltu gjöra og hitt skaltu láta ógjört; hér talar sá réttláti dómari til vor og kunngjörir oss, að ángist og harmkvæli skuli vera yfir sérhvörjum þeim, sem gjörir hið vonda; en heiður, vegsemd og frið skuli hvör sá hljóta, sem gjörir hið góða (Rom. 2, 9. 10). Skulum vér ecki með heilögum virðíngar-ótta hlýða Yfirherrans boði? — En, vér erum syndarar, og oss vantar þá hrósun, sem vér áttum fyrir Guði að hafa. Án æðri aðstoðar gétum vér ecki haldið Guðs boðorð. Vér finnum „að lögmálið er gott, og öll þess boðorð heilög, réttvís og góð;" en „vér finnum annað lögmál í vorum limum, sem stríðir á

móti løgmáli vors hugskots, og tekur oss fángna undir syndarinnar løgmál, sem er í vorum limum" (Róm. 7, 12. 23). Hvad ómøgulegt væri ecki syndugri manneskju ad standast í þessu stríði, ef Gud sjálfur hefdi ecki komid henni til hjálpar! en hann er kominn oss til hjálpar.

Biblían er oss géfin til ad boda syndurunum fridarins Evangelíum. Hér er oss kénnt hvørnin mannanna Fadir hafi vidreist sín føllnu børn. Gamla Testamentid fyrirsegir, ad einn Endurlausnari skuli koma í heiminn, og Nýa Testamentid kunngiørir, ad Endurlausnari sé kominn. Þetta er kjarninn úr allri Biblíunni. Guds ord kénnir oss fyrst bædi hvørnin vér eigum ad vera, og hvørnin vér af náttúrunni erum; þad leidir oss fyrir sjónir miøg hátt takmark: Einúngis „þeir hreinhjørtudu skulu sjá Gud (Matth. 5, 8). Verdid fullkomnir — í kærleikanum — eins og ydar himneski Fadir er fullkominn (Matth. 5, 48). Verid eins lyndir og Jesús Kristur var!" (Phil. 2, 5). En hvørsu vér nú af náttúrunni, þad er, án ædri hjálpar af Gudi, erum fjarlægir frá þessu takmarki, þad kénnir oss einnig Biblían: „Hid holdlega sinnislag er fjandskapur í gégn Gudi, því hvørki skipast þad undir Guds løgmál, né heldur gétur þad (Róm. 8, 7). Hvad af holdinu er fædt, þad er hold (Joh. 3, 6). Holdlega sinnadur madur skilur ecki þá hluti, sem Guds Anda tilheyra, þeir eru hónum heimska og hann gétur ecki þeckt þá, því þeir hljóta andlega ad dæmast" (1 Kor. 2, 14).

Þetta er spegillinn, sem Biblían setur fyrir syndarann. En hvad notadi þad, ad hún fyrirsetur svo breiskum sképnum, sem manneskjurnar eru ad sjálfs dádum, svo hátt takmark; hvad notadi, ad hún uppvetur oss til ad strída vid holdid og képpast áfram þann þraunga veg, sem til lífsins leidir, ef hún hefdi ecki einnig komid vorum veikleika til hjálpar? En, hún gjørir þad; þviad hún vísar syndaranum til Hans, sem kominn er til ad frelsa þad tapada (Joh. 3, 16).

Jesus kunngjørir ecki einúngis øllum syndurum, sem vilja umvenda sér frá því vonda, nád hjá Gudi; heldur hefir hann einninn med sínu eigin blódi innsiglad fridarins bodskap. Þegar nú syndarinn hlýdir køllun Drottins, audmýkir sig af hjarta fyrir Gudi, og í trúnni á Jesúm Krist sættir sig vid hann, þá fær hann hugprýdi og styrk til ad voga sér í stríd vid sínar syndsamlegu girndir; því þá vakna heilagar tilfinníngar í sálu hans, elsku, trausts og þacklætis tilfinníngar, og þá fær Jesu nádar-lærdómur framkvæmt þad hjá hønum, sem eintómar løgmálsins hótanir og skélfingar ecki géta til vegar komid (Rom. 8). Trúin á hann krossfesta og upp aptur risna styrkir sálu hans. Guds heilagi Andi sem hann lofadi sínum lærisveinum og elskendum styrkir hann í strídinu; hann lærir ad vaka og bidja, svo hann falli ecki í freistni; hann verdur, einsog Ritníngin ad ordi kémst, ný manneskja og ný sképna, Eph. 4, 22. 2 Kor. 5, 17); og hann hlýdir nú Gudi, ecki

eins og þrællinn sinum herra, heldur einsog gott barn fødur sínum (Róm. 8, 15). En ef ad þetta fridarins Evangelíum, sem Biblían bodar oss, á ad hafa þessa verkan í vorum hjørtum; munum vér þá ecki þurfa ad færa oss þad í nyt med Audmýkt hjartans? því hvørnin gætum vér metid þad svo mikils, ef vér ecki findum þørf vora fyrir þad? hvørnin leitad læknirsins, ef vér ecki findum oss sjúka? Ímindadu þér aldrei, kristinn madur! einsog sá drambsami gjørir, ad þessi hjartans audmýkt fyrir Gudi, sem hans ord krefur af oss, sé breiskleiki eda bleydufkapur. Þenk til Postulans Páls; enginn hefir meir audmýkt sig fyrir Gudi enn hann, (1 Kor. 15, frá 9da v. 1 Tim. 1, frá 12ta v.); hans eigin forþénustur voru eckért í hans augum; Guds nád í Kristo var hønum allt. Vantadi hann þá fyrir þad hug eda dug? Nei, „hann megnadi allt fyrir Krist, sem gjørdi hann styrkvann." Og hvør hefir erfidad meira og útstadid meira fyrir Jesú sakir, enn þessi audmýktarfulli Postuli? (Philipp. 4, 13. 1 Kor. 15, 10).

Biblían er oss af Gudi géfin til þess hún skuli vera sífeldt næringar-medal fyrir hid andlega líf, fyrir hid kristilega hugarfar og breitni. Einsog vor líkami þarf daglega fædunnar med til lífsins viduthalds, allteins þarf sála vor daglega næringu fyrir hennar andlega líf, hennar líf í Gudi. Og þvílíka andar fædu sinnum vér hvørgi eins ørlátlega og yfirfljótanlega, né svo kroptuga og kjarngóda sem í þeirri heiløgu Ritningu. Hér er allt þad ad fá,

sem vor sála meðþarf. Engin þekking er oss nauðsynlegri enn sjálfsþekkingin; og Biblían er sá spegill, í hvørjum vér sjáum sjálfa oss. Ef vér adeins höfum hugprýði til ad horfa í þennann spegil, skygnast inní þetta fullkomna frelsis-lögmál, og höldum áfram med þad, þá fáum vér betur og betur þekt vort sanna sálar ástand; því hér finnum vér vora heimuglegustu þánka svo lifandi afmálada, ad vér hér megum kannast vid vora réttu mind. Biblíunnar saga er náttúrleg saga mannlegs hjarta. Þad er ekki einúngis sá ytri madur (mannsins gjörvalla útvortis háttalag) í allslags ástandi og kríngumstæðum, sem hér er oss fyrir augum afmálad, heldur er þad einkanlega innri madurinn (hjartalagid) med öllum hans löstum og kostum, sem hér er oss fyrir augum afmáladur. Enginn hefir nád svo litilli, og enginn svo mikilli reynslu í andlegum efnum, ad hann hér ekki fái þekt sjálfan sig. Vér þurfum allir leidsögn til ad fá ratad þann rétta veg innanum svo margar villugötur, sem vort breiska hjarta og heimurinn vilja leida oss á; en hér er lampi vorra fóta og ljós á vorum vegum; hér gengur sjálfur Jesús, hinn gódi hyrdir, undan hjörd sinni; og vér getum aldrei villst á afvegu, medan vér hofum hann fyrir leidtoga, „því hann er ljós heimsins, og hvør sem eptirfylgir honum skal ekki gánga í myrkrinn," (Joh. 8, 12). Vér þurfum vidvörunnar vid þeim mörgu tálsnörum, sem heimur þessi leggur fyrir vorn fót; og í Guds ordi hefir þú, kristinn madur! trúfastann vin, er varar þig vid sérhvørjum ásteytingar

steini sem þú þarft ad fordast; þad minnir þig á þá mørgu breisku, sem féllu í freistni, af því þeir forsómudu ad vaka og bidja, marga mótþróafulla, sem nidursuku í fordjørfuninna, afþví þeir forherdtu sig móti sannleikanum. Biblían inniheldur óþverrandi nægtir af kjarnaríkum málsgreinum, sem vardveittar í gódu hjarta hafa styrkt marga á freistingar tímanum. Þegar oss verdur hætt vid ad rasa á skyldunnar vegi, og oss þá kémur í hug ein Biblíugrein lík þessum: „Þér erud dýru verdi keyptir, verdid því ecki þrælar manna — edur: Hvør sem medkénnir mig fyrir mønnum, þann vil eg medkénna fyrir mínum himneska Fødur — og: Vertu trúr allt til daudans, þá vil eg géfa þér lífsins kórónu“ ogsvofr: Hvørsu géfur þetta oss ecki hugprýdi og styrk, þegar mest árídur, til ad standa stødugir í strídinu! Vér þurfum upphvatníngu til ad halda øruggir áfram þann þraunga veg sem til lífsins leidir; og hér høfum vér í fyrirheitum ens trúfasta allt þad, sem vidhalda kann øruggri hugprýdi ens trúada; hér er oss vid enda vors skeids sýndur sigurkransinn, sem Drottinn géfur þeim, er strída og yfirvinna; hér sjáum vér fyri framan oss óteljandi skara af trúudum og nú fullsælum, sem tilbjóda oss ad fylgja sér eptir og hlaupa þolgódir þad skeid, sem oss er fyrirsett (Hebr. 12, 1); hér hljóma fyrir oss margir audríkir sálmar, sem vekja heilagar tilsinníngar elsku og trausts, vonar og gledi, í øllum óspilltum hjørtum. Vér þurfum med huggunar í sorgum og þjáníngum þessa lífs; og hefir þú ecki hér, ó

madur! óþverrandi huggunar uppsprettu, hvar þú gétur fengid sálu þinni lækninga í sérhvørri hrygd og neyd, á sóttarsænginni, vid ástvina missir, já einnin þegar enga jardneska huggun er ad fá.

Aus því, kristinn madur! kostgæsilega af þessum lífsins brunni; því þú fær hvørgi eins holla og krøptuga fædu sálu þinni; hún er komin frá andanna Fødur, og hefir auglýst sinn krapt á øllum þeim sem hennar, leitudu í trú og andakt. Lát þig ecki undra, þó þetta guddómlega Guds orda sædi verdi hjá mørgum ávartarlaust; þad fellur svo opt á þjódveg, og verdur þar fóttrodid, í grýtta jørd og skrælnar, medal illgresis og kiæsist; en þar sem þad fellur í góda jørd, þar vex þad upp, og ber margfaldann ávørt. Þad er þessvegna komid undir akursins undirbúníngi, hvørt sædid muni ávartast, sem í hann er sád; undir því hugarfari, med hvørjn Biblían er lesin, er komin øll blessan þaraf. Og af øllu því, sem hér ad framan er sagt um Biblíunnar guddómlega uppruna og háu ákvørdun, skjóta þá siálfkrafa eptirfylgiandi reglur, sem vér þurfum nákvæmlega ad athuga, ef vor Biblíu-lestur skal færa oss nockurn sannann og váranlegann ávørt.

1. Gleymdu aldrei, ad þad er Gud, sem talar til þín í heilagri Ritníngu. Veittu því ordum hans eptirtekt, med heiløgum ótta og virdíngarsemi, og med því trúnadartrausti sem barnid hefir á fødur sínum. „Sonurinn skal heidra sinn fødur og þjóninn sinn herra. Ef eg er fadir, hvar er þá minn heidur; og sé eg herrann, hvar er þá minn ótti?"

Þannig áminnir sjálfur Gud oss í sínu ordi (Malach. 1, 6). Og hvør skyldi ecki sjá og finna hvørsu sanngjarnt þad er, ad børnin heyri þegar mannanna Fadir talar, ad syndararnir audmýki sig þegar sá heilagi talar til þeirra!

2. Slit þig frá øllum jardneskum umsvifum og þaunkum þegar þú vilt lesa í heil. Ritningu. Því þad er ecki um forgengilega hluti, sem hér er til vor talad, heldur um vorrar ódaudlegu sálar ædstu naudsynjar. Og hvørnin skyldum vér géta heyrt þessa himnesku raustu, sem útheimtir alla athygli vorrar sálar, oss til blessunar, ef þaunkum vorum er svo sem tvískipt milli Guds og heimsins? Til þessa heilaga verks hljótum vér því ad velja þær stundir, á hvørjum vér finnum oss hæfasta til, hindrunarlaust og án annarlegra þánka, ad lypta hjørtum vorum til Guds.

3. Bú þig alltíd undir lestur Biblíunnar med bæn til Guds; edur réttara sagt: byrja þú, framhald og enda þetta heilaga verk med iduglegri bæn og hjartans upplyptingu til Guds. Ef vér forsómum þetta, gétum vér ecki rétt skilid Guds ord, ecki geymt þad í gódu hjarta, og ecki lifad eptir því. Frá Gudi hlýtur allt gott ad koma; „hann er sá sem gaf oss sitt ord, og hann er sá sem verkar í oss bædi ad vilja og framkvæma eptir sínni velþóknun" (Phil. 2, 13). Af sjálfum oss megnum vér eckért og skiljum eckért. Hvør sem því les Guds ord án bænar til Guds, hann fyllir, þegar bezt tekst til, minnid, en hjartad er tómt; því hvadan

skal sú sanna blessan koma, nema frá Gudi? og hvörnin fáum vér hana ødlast, nema vér bidjum um hana? Ef þú þessvegna vilt leita þér andlegrar uppbyggíngar í heil. Ritníngu, þá verdur þinn Biblíu-lestur ad vera rétt samtal vid Gud. Hann talar vid þig í sínu ordi, og þú átt ad tala vid hann í heilagri andakt, med ad gjøra þad sem þú les ad hjartanlegri bæn, fyrirbæn og þackargjørd. Þá munt þú reyna ad á þér uppfyllist Jesú fyrirheit: „Ef þér, sem vondir erud, tímid ad géfa børnum ydar gódar gáfur; hvörsu miklu fremur mun Fadirinn á himnum géfa þeim heilagan Andan sem hann þarum bidja?" (Lúc. 11, 13).

4. Heimfærdu alltíd uppá sjálfan þig þad sem þú les í Bibliunni. Guds ord er sá spegill í hvörjum vér eigum ad skoda sjálfa oss. Þad er oss ecki géfid til þess ad dæma adra eptir því, heldur vort eigid hjarta og líferni. Hvøreinn stendur og fellur sínum eigin herra (Rom 14, 4). Og í Biblíunni talar þinn herra til þín, ó manneskja! Þú ert madurinn, sagdi Nathan vid Davíd (2 Sam. 12, 7); og af því ad Davíd þeckti sína eigin mynd í þeim spegli, sem fyrir hann var settur, þá snéri hann sér til Guds, og hans sála frelsadist.

5. Brúkadu Biblíuna til þess sem hún er þér af Gudi géfin. Ecki hefir hann géfid oss sitt ord til þess, ad vér hefdum nockud ad grubla úti, edur stæra oss af, edur halda kappræður um, edur ad brúka til dægrastyttingar. Nei! hvør sem les Biblíuna einúngis til ad grubla úti þad undrunarfulla, sem hún inniheldur, edur til ad skémta sér

vid þad frábrugdna, svosem í fráşøgnunni um Samson og Jephta, edur til ad vilja í einhvørri bók Biblíunnar, — svosem Jóhannis Opinberunum — hnýsast inni hid ókomna, þvertámót Postulans Péturs advørun (2 Pet. 1, 10), sem kénnir oss ad spádómarnir verda ecki útlagdir fyrr enn þeir uppfyllast: edur til ad sýna visdóm sinn í samkvæmum: edur til ad géta vakid ordadeilur mót sínum náúnga, smánad hann og fordæmt sem villumann; — sá ónýtir ecki einúngis tímann, heldur og misbrúkar þá beztu gáfu Guds; hann útdregur ólifjan af því, sem oss er géfid til lækningar vorum sálum. „Til lærdóms, til sannfæríngar gégn mótmælum, til leidréttíngar, til mentunar í rádvendni" er heiløg Ritníng oss géfin (2 Tim. 3, 16), og til þess á hún ad brúkast.

6. **Endurnýa því þann ásetning í sálu þinni, í hvørt sinn sem þú tekur Biblíuna í hønd þér, ad lifa trúlega eptir því sem þér er þar fyrirlagt.** Án þessa námfúsa og hlýdnisfulla hjartalags verdur lestur Biblíunnar oss ad engum notum; því vér lesum ecki einúngis til ad læra, heldur til ad breita eptir því sem vér lærum; annars líkjumst vér þeim manni, sem skodadi andlits-skapnad sinn í spegli, géck svo burt og gleymdi strax hvilíkur hann var; (Jak. 1, 23.) — edur vér svíkjum sjálfa oss med þeirri hræsnisfullu ímindun, ad vér þjónum Gudi med því einúngis ad lesa Guds ord. Ei heldur skulum vér lesa Biblíuna einúngis til ad vekja gudrækilegar tilfinníngar í vorum hjørtum; þær koma oss þá fyrst ad notum, þegar þær gjøra þar var-

anlega verkan; en hvad nota þær annars? Hvad gagnadi það Gydíngum, þó þeir lotníngarfullir vid Jesú innreid til Jerusalem, undirtækju hvor med ødrum: Hosíanna Syni Davíds! þar sama fólkid hrópadi þó skømmu sídar krossfestíngu yfir hønum? Hvad notadi það Saul konúngi þó hann kæmist svo vid, ad hann táradist af blygdun vegna þess órèttar, sem hann gjørdi þeim edallundaða Davíd, þar hann ofsókti þó Davíd eptir sem ádur? (1 Sam. 24, 17 og 26) En ad Davíd hrærdist vid fortølur Nathans spámanns, Pètur vid Jesú augna tillit, vard þeim bádum til blessunar; því það var sú hrygd eptir Gudi, sem verkadi apturhvarf til sálnhjálpar, (2 Kor. 7, 10). Af ávøxtum þíns Biblíulesturs skaltu því sjá hvad mikils verdur hann er. Það sem þessvegna í heil. Ritníngu fyrirkémur, og þú med andaktarfullri og fromhjartadri yfirvegun ecki gètur skilid né heimfært uppá þig, yfir það skaltu hlaupa, því það er þá ecki skrifad handa þèr, heldur ødrum. En þegar Guds ord kémur vid þína egin bresti, þá leita aldrei undanbragda til ad umflýa sannleikann, hvørsu beiskur sem hann kann ad vera. Vidurkénn ávirdíngu þína fyrir Gudi, med þeim einlægasta ásetníngi, ad lagfæra það sem þú finnur þig sekann í, og uppfylla þær skyldur sem þú finnur þig hafa vanrækt; en byrjadu strax ad framkvæma það, sem þú ásetur þèr og rádgast ecki um það vid hold og blód, ei heldur vid heiminn — það er Drottinn sem hèr talar, og hans raustu eigum vèr ad hlýda.

7. En, imindadu þér aldrei ad þú fáir þessu til vegar komid, einúngis med þínum egin kröptum. Nei! vér þurfum Guds adstod til ad géta haldid Guds bod; og þessi adstod er oss af Gudi send í hans Syni Jesu Kristo. „An mín megnid þér eckert“ segir Jesús (Jóh. 15, 5). Guds Lögmál er sá spegill, í hvörjum vér fáum séd vor afbrot, og þess nákvæmar sem vér hér adgætum sjálfa oss; þess grandgæfilegar sem vér rannsökum vort hjarta, og ecki einúngis adgætum vorar útvortis athafnir, heldur einnig þeirra orsakir og tilgáng; med þess meira ángri finnum vér ad vér erum syndarar og höfum skort á þeim heidri, sem hjá Gudi gildir. Þessvegna hvör sá sem í heil. Ritníngu leitar einúngis ad lögmálinu, en forsmáir Jesú Evangelium, hann er hofmódugur Phariseari, sem einúngis hángir i lögmálsins bókstaf, en skynjar ecki þess anda, (Róm. 10, 3). Ef vér af Guds ordi lærum ad þeckja sjálfa oss og hvad lögmal Drottins af oss heimtar, þá finnum vér hvörsu sárþurfandi vér erum hjálpar hans, sem kominn er til ad frelsa syndarana. Leita hans því med audmjúku hjarta, svosem þíns talsmanns hjá Födurnum; þá muntu ecki láta hugfallast, þó þú þeckir og finnir til ávirdínga þinna. Forlika þig vid Gud í trúnni á hann; þá fær þú hugar-styrk til ad eptirfylgja hönum á þeim örduga vegi, sem til lífsins leidir; því þá mun hans andi, elsku og þacklætis andi, veita þér styrk til ad afneita sjálfum þér. Þá muntú sem Páll Postuli (2 Kor. 5, frá 14da v.) „finna þig af Krists kærleika þving-

ast til ad lifa ecki framar sjálfum þér, heldur hønum, sem fyrir þig er dáinn og upp aptur risinn." Það er sú hlýdni, sem Jesú nádarlærdómur af þér heimtar, það er ecki þræls hlýdni, heldur eins og þá gott barn hlýdir gódum fødur.

8. Misbrúka aldrei það fridarins Evangelium, sem heiløg Ritning bodar þér, til ad hylja med fals og hræsni, né til ad ala í þér leti og uggleysi. Hvør sem þetta gjørir þeckir ecki Jesú Evangelium; hann hefir aldrei réttilega forlíkad sig vid Gud. Hvørnin skyldi, til d: sá sonur, sem hefir medkénnt fyrir elskurikum fødur ávirdingar sínar, og fengid fyrirgéfningu, vísvitandi reita hann aptur til reidi? væri hann þá ecki hræsnari og svikari? Hefdi hann af einlægu hjarta leitad sátta vid fødur sinn, skyldi hann þá ecki óttast ad gjøra hønum strax aptur á móti og á ný brjóta af sér hans elsku? Mun ecki þacklátsemi hans, einsog góds barns, vid sinn elskurika og umburdarsama fødur gjøra hønum audveldt ad hlýda hønum í øllu? Þetta sama hugarfar inngéfur Jesú Evangelium þeim, til nádar tekna syndara, til Guds hans himnesku Føðurs. Þess meir tilfinningu, sem hann hefir af sínum óverdugleika til þeirrar óverdskuldudu nádar og miskunar, sem hønum er veitt í Jesú Kristo, því sídur mun hann á ný géfa sig í syndarinnar þrældóm, frá hvørjum hann er frelsadur fyrir Jesum Krist. Elska til Guds, sem hefir tekid hann til nádar í sínum elskulega Syni, þacklæti vid Jesum, sem offradi sjálfum sér fyrir hann, advarar hann í øllum freistingum, styrkir

hann í öllu sálar strídi, og giörir hönum jafnvel þad ördugasta léttbært. Þad audmjúka sonarlega hugarfar, sem trúin á Jesú nádarlærdómi verkar, er uppsprettu alls góds hjá kristnum manni: þad kénnir hönum ad álíta lífsins andstreymi sem naudsýnlegar födurhyrtíngar, en þess gladværdir sem óverdskuldadar gáfur, hönum veittar til upplífgunar. Hann er þessvegna í medlæti lítilátur og medlídunarsamur vid alla aumstadda, en í mótgángi ánægdur med Guds födurlegu tilskipanir; því hann er, fyrir trúna á Jesum, Gudi sameinadur, og væntir sér alls góds af hönum. Hann er erfíngi Guds og samarfi Krists. Þannig leidir Guds ord oss Jesú Evangelium fyrir sjónir (Róm. 6, 8 og 12 Kap. — Gal. 5, frá 13da v. — Tit. 2, frá 11ta v.). Og hvör sem þannig álítur þad, mun sanna Postulans Páls ord: ad þad sé „kraptur Guds til sálnhjálpar sérhvörjum þeim sem trúir" (Róm. 1, 16).

9. **Enda aldrei Biblíu-lestur þinn án þess þú med hjartanlegri bæn til Guds vel innrætir hjarta þínu þad sem þú numdir.** Les því ecki ofmikid í senn, og heldur litid, en les þad med öllum eptirþánka; settu vel á þig þad sem mest fær á sálu þína; geym þad í hreinu og gódu hjarta; hafdu þad fyrir þinn leidarvísir í lífinu, þinn trúfastann vin, þinn heimuglegann, áminnara og huggara; og þegar helmsins freistíngar mæta þér, þá umfram allt, haldtu fast því sem þú hefir, svo einginn taki þína kórónu, (Opinb. 3, 11). Hafdu sífeldlega gætur á hjarta þínu, svo hid guddómlega sædi, sem

þar er sád, hvørki skrælni af því brennanda sólskini, af freistínganna reynslu eldi, né nidurkæfist af þyrnum og þistlum, af veraldlegum áhyggjúm og girndum. Þegar þetta andlega sædi er vel ræktad med árvekni og bæn, mun þad vaxa og þroskast og bera margfaldann gódann ávørt. Þad sem þú numid hefir muntu ecki leitast vid ad leida í ljós fyrir heiminum, þér til fordildar, en þín spakláta, gudlega breitni mun sýna, hvørjum þú tilheyrir. Þú munt ecki skammast þín fyrir Jesú Evangelium, heldur vidurkénna hann fyrir heiminum, svo hann aptur géti kannast vid þig fyrir sínum himneska Fødur (Matth. 10, 32. 33). Þú munt láta „þitt ljós skína fyrir mønnum, ad þeir sjái þín gódu verk og dýrki þinn Fødur, sem er á himnum" (Matth: 5, 16).

Hvør sem þannig med audmjúku, trúundu og hlýdnu hjartaþeli les heil. Ritníngu, hann mun vissulega skilja allt sem hann þarf ad skilja. Skilur ecki sonurinn ord fødur síns, þegar hann alvarlega vill fylgja hans áminníngum og advørunum? Skilur ecki þénarinn nægilega bod síns herra, þegar hønum er annt um ad vilja breita þareptir? Hvørsu vel skilst ecki þeim sorgmædda huggunar ástædur síns trúfasta vinar, þegar hann leitar hjá hønum lækníngar sínu særda hjarta? Þad er þessvegna hjartans sára þørf, sem skal leida oss ad ljóssins og lífsins uppsprettu, og kénna oss ad ausa þaraf eptir sem sála vor medþarf; þad er hún sem skal opna fyrir oss helgidóminn og kénna oss ad dvelja þar med lyst og laungun. Hvørn sem húngrar og þyrstir

eptir réttlætinu, hann leitar í Biblíunni sadningar og svølunar sálu sinni; og hvør sem leitar, hann mun finna. Þegar t. d. einn audmjúkur kristinn les Páls ángurfullu kløgun yfir holdsins edur skilningsarvitanna sýsna rádriki, í Pistlinum til Rómv. 7, mun hann þá ecki skilja Postulans meiningu? Jú, hann finnur til þess sama í sinni sálu, því þannig hefir hann opt heimuglega klagad yfir sjálfum sér. Bréfin til Rómverja og Galatiu innbyggjara innihalda ad vísu nockrar þúngskildar greinir; en mun sá kristni, sem les þau med einlægu og idrandi hjartalagi, ecki samt géta fundid huggun og krapt Jesú nádarlærdóms, sem hér einkanlega er fyrir sjónir leiddur? Hvad audskilin er ecki Jesú fjallprédikun øllum þeim, sem vilja hlýda hans bodum! Ef einn trúadur kristinn hefir grátid edur grætur vid grøf framlidins ástvinar, mun hann þá þurfa adra leidsøgn enn sins hjarta sáru þørf til ad fá skilid Jesú skilnadar-rædu til sinna lærisveina, sem ritud stendur hjá Jóh. frá 13da til 16da Kap.? Hvad audskilin og upplífgandi fyrir hvørn trúadann krossberara er ecki sú sorgar og huggunar raust, sem hljómar í mørgum af Davíds sálmum! Vér hljótum því ad lesa heilaga Ritningu í þeim sama anda, í hvørjum hún er skrifud; vér verdum þá ad vera gagnteknir af þeim sømu tilfinningum, sem þeir heiløgu skrifarar, af þeirra sorg, þeirra von og þeirra gledi, svo skiljum vér þá; sá sannleiks Andi, sem taladi fyrir þeirra munn, leidir oss þá í allan sannleika; sjálfur Gud er þá vor frædari, Jesús

Kristur vort leidar ljós. „Mínir saudir, segir hann, (Jóh. 10, 27) heyra mína rødd," þad er: skilja mín ord og hlýda þeim. „Eg þecki mína og mínir þeckja mig" (Jóh. 10, 14); en þeir sem ecki eru hans, skilja ecki heldur hans ord. „Því skiljid þér ecki mál mitt?" spurdi hann Phariseana (Jóh. 8, 14) og svarar sjálfur þessu: „af því þér gétid ecki heyrt mín ord." Þannig gengur þad enn í dag. Sá hofmódugi, sá hégómlega ærugjarni og veraldlega sinnadi hefir annadhvørt vidbjóds leida á, edur gremst yfir Bibliunnar einfølda og alvarlegu ordum; þau eru, einsog Páll segir, (1 Kor. 2, 14) „heimska fyrir hønum, og hann gétur ecki skilid þau, því þau hljóta andlega ad dæmast." En koma þó ecki mørg þúngskilin stycki fyrir í Bibliunni? Því verdur ecki neitad; en þad er ecki í hennar adalinnihaldi, ecki í því, sem áhrærir vor sáluhjálpar-efni, ecki í því, sem vér þurfum ad vita til ad géta ratad þann rétta lifsins veg. Í þessu er eckért tvírædt né vafasamt, eckért myrkt edur þúngskilid, heldur allt talad til hjartans, einfaldt, skorinordt og skýlaust. Dæm þú sjálfur, minn gódi kristni! þú sem elskar Gud og hans ord! talar heiløg Ritníng óskiljanlega til þín um Gud, og um þá elsku, þacklæti, hlýdni og traust, sem þú ert hønum umskyldugur? Talar hún tvírædt um Jesum Krist, hvør hann sé og hvad hann er þér; til hvørs hann er í heiminn kominn; hvad hann hefir gjørt og lidid fyrir þig? Brúkar hún myrkt og óskiljanlegt ordfæri um trúna, vonina og kærleikann? nei! í þessu høfud-efni er Bibliunnar ord-

færi sannleikans einfalda ordfæri, skírt og ljóst, kroptugt og þánkarikt, eins og þá sólin bædi lýsir og vermir undireins. Og þegar margir, jafnvel í þessu Biblíunnar höfud-innihaldi þykjast finna eintómt myrkur, heimsku og ósannsýni, þá er þad víst ecki Biblíunnar, heldur þvilíkra lesara skuld; þeir skilja hana ecki, afþví þeir vilja ecki skilja hana; þeir aptúrloka augum sínum fyrir sannleikans ljósi, sem þeir vilja ecki þola. Lát þad, minn kristni medbródir! samt ecki fæla þig frá ad lesa Biblíuna, þó þú heyrir þessa heilögu bók þannig af mörgum úthræmda! Fylgdu einúngis framanskrifudum Reglum, þá muntu víst finna og skilja hvad þar er skrifad handa þér; því þad liggur í edli hlutarins, ad þegar Guds ord er haft um hönd med gudlegu hugarfari, hlýtur þad ad verda oss ljóst og skiljanlegt, og því ljósara sem þad er optar þannig lesid.

Ef vér lesum heil. Ritníngu med því hugarfari, sem ádur er sagt, sem hefir slitid sig frá heimsins umsvifum og snúid sér til Guds; fylgir þad þá ecki af sjálfu sér, ad allt verdi oss héri angljósara? þad er ecki heimsins andi, sem hér talar, heldur sá Andi sem er af Gudi (1 Kor. 2, 12). Þad er allt önnur raust, sem vér heyrum í þessum helgidómi, enn sú, sem vér venjulega heyrum þar fyrir utan; þad er allt annad samkvæmi, sem vér komum hér í, heldur enn þau almennu samkvæmi í heiminum; og þad gamla máltæki sem opt er misbrúkad: „menn verda ad vera eins og adrir í samsætinu," má hér heimfærast í ædri og verdugri meiningu. Hugur þeirra

heilögu ritþöfunda var, þegar þeir skrifudu það sem Gud inngaf þeim, upphafinn yfir það jarduesku og forgengilega, yfir öll audvirdileg augnamid; og því nær sem vér komumst sama hugafari, þess betur skiljum vér þá. Þeir tala til vor um háleita, andlega og himneska hluti; og því framar sem vor hugur og laungun snýst ad þessum hlutum, þess betur fáum vér skilid þeirra ord. Þá skiljum vér, til d. það ordfæri, sem svo mörgum þykir undarlegt ad heyra, er Páll brúkar í 1 Kor. 1 Kap. frá 18da v. — og 3ja Kap. frá 18da v. um „heimsins vísdóm" sem sé „heimska fyrir Gudi;" um „ad verda fávis, til ad verda vís" og svo fr:

Ef vér lesum heil. Ritníngu med hjartanlegri bæn til Guds, þá hlýtur margt ad upplýsast fyrir oss, sem annars væri oss óskiljanlegt. Frá ljósanna Fødur verdur ljósid ad koma og vér bidjum hann aldrei forgéfins þarum. Hann er nálægur þeim sem hann ákalla, og ákalla hann af alvøru (Sálm. 145, 18). „Bæn hins réttláta megnar mikid, þegar hún er alvarleg" (Jak. 5, 16). Vid hana verdur oss það fullkomin alvara ad leita ad lífsins vegi; vid hana eykst vor andar kraptur; vid hana skérpist vor sálar sjón. Vor hjörtu opnast þá fyrir sannleikanum og sannleikurinn gjörir oss frjálsa.

Ef vér lesum heil. Ritníngu til ad breita eptir því sem vér lærum, og framkvæmum það líka, þá fyrst upprennur oss það sanna ljós, og glædist þá meir og meir í sálu vorri. Hvad er öll vor þecking án eigin reynslu? Reynslan er, jafnvel í líkamlegum

efnum, sá bezti lærimeistari. Hvörsu margar bækur sem einn bóndi hefir lesid um jardyrkju, ef hann sjálfur gjörir aldrei neina tilraun þarmed, þá verdur öll hans þekking ecki einúngis fánýt, heldur ogsvo ógreinileg og óljós. Eins gengur þad til í andlegum efnum: hvörsu kostgæsilega sem vér höfum lesid Biblíuna, ef vér ecki látum þad Guds orda sædi, sem í henni finnst falla í akur vors hjarta, og ecki ræktum hann, svo hann géti borid ávöxt, þá verdum vér sífeldlega hofmódugir heimskíngjar, sem eckert vita; vér lærum þá, en komumst aldrei til sannleikans vidurkénníngar (2 Tim. 3, 7). Nei — af því ad verda ordsins gjörendur, en ecki einúngis þess heyrendur eda lesendur, lærum vér fyrst rétt ad skilja þad. Einúngis med því ad gjöra Guds vilja fáum vér, eptir Jesú fyrirheiti (Jóh. 7, 17) þeckt, þad er: af eigin reynslu fullvissast um, „hvört lærdómurinn er af Gudi, edur Hann talar af sjálfum sér" — (sem manneskja). Guds ord er ecki innifalid í daudum bókstöfum, heldur í anda, lífi og krapti; og einúngis sá sem sjálfur reynir þess krapt í sálu sinni, fær skilid þad. Hvör gétur rétt skilid hvad þad er, ad ángrast af syndum sínum, ad umvenda sér til Guds, ad afneita sjálfum sér, ad trúa á Jesum Krist, ad elska sinn náúnga? Ecki nema sá, er framkvæmir þad sem þessi ord merkja. Af þessari lifandi þeckíngu verdur Biblían oss kær; þá látum vér ecki spottyrdi gárúnga draga oss frá henni. Vér segjum þá med Post. Páli: „Eg veit á hvörn eg trúi" (2 Tím. 1, 12).

Ef vér stöduglega þannig færum oss heil. Ritníngu í nyt (nefnil. til ad breita eptir henni) — þá lærum vér æ betur og betur ad skilja hana. Vér náum þessari þeckíngu af reynslunni ecki allt í einu, heldur smámsaman. Af sólar birtunni sést fyrst ecki nema litil dags-skýma sem meir og meir eykst, þartil komid er hádegis-skin. Sumir eru börn í Kristo, (þad er: í Krists lærdóms þeckingu og æfingu) — sumir únglingar, sumir fulltída menn, sumir öldúngar, ecki eptir aldrinum einúngis, heldur eptir þeirra framförum. Vorar syndir og heimskulegar ímindanir er eginlega þoka sú, sem byrgir fyrir oss þad himneska ljósid; ef vér færum oss Guds ord stöduglega í nyt, þá sundurdreifist þokan meir og meir; þá skin einn geisli eptir annann inni sálu vora; vér uppgötvum þá eina ávirdingu, eina vanart eptir adra hiá sjálfum oss; og þannig gengur þad alltaf, án þess vér nockurntíma megum ímiuda oss, ad vér höfum komist fyrir upptök vanartar vors hjarta, edur úttæmt þá eylífu visdóms uppsprettu, sem framflýtur í heil. Ritníngu. Nei! Biblían er sem gullnáma sú, hvar finna er því meiri audlegd, þess dýpra sem grafid er; en, med hreinum hjörtum skulum vér inngánga í þennann helgidóm, ef vér eigum ad géta séd þá Guds dýrd, sem hér opinberast oss; med daglegri sjálfsprófun og sjálfs afneitun skulum vér meir og meir hér til innvigjast; vér hljótum "ad hreinsa oss meir og meir frá allri saurgun holdsins og andans og fullkomna vora helgun í Guds ótta" (2 Kor. 7, 1), ef vér skulum sjá Drottinn. A

þessum sjálfsafneitunarinnar vegi framgengu allir þeir, sem lærdu ad skilja Guds ord til hlýtar. Þannig gèck þad einnig fyrir Jesú Postulum, sem þó hösdu sérdeilislega leidsögu Guds Anda: á þeirra fyrstu undirbúníngs tíd vóru þeir börn; þá hlaut þeirra födurlegi Frædari ad géfa þeim einúngis mjólk en ecki þýngri fædu; hann hafdi mikid ad segja þeim, sem þeir voru enn þá ecki medtækilegir fyrir. Hefdu þeir nú snúid hjarta sínu frá hönum, þegar hyrdirinn var slegin og saudirnir tvístruduſt, þá hefdi þad litla ljós, sem kveikt var í sálu þeirra, brádum útsloknad; en þeir vidhélduſt sem kvistir á vintrénu, hvörju þeir vóru eittsinn innplantadir, og báru þessvegna ypparlega ávexti. Þannig hljótum vér einnig ad halda oss stöduglega vid visdómsins uppsprettu, ef vor augu skulu opnast fyrir þeim dýrdlegu fjársjódum, sem hún inniheldur. Og hértil leidir oss Gud sjálfur med sínum födurlegu áminníngum, ef vér ad eins viljum géfa gætur ad hans bendíngum. Hann leggur á oss kross og þjáníngar, svo vér skulum finna vora þörf fyrir hans ord, og í því leita hvíldar vorum sálum; hann lætur oss reynast í ýmsum andar freistíngum, svo vér ecki skulum byggja vora trú og von á sandi mannlegs visdóms, heldur á bjargi því, sem stendur stödugt í storminum; hann minnir oss iduglega á forgengilegleika vors jardneska lífs, svo vér skulum halda oss því frekar til „hans, sem hefir ord eylífs lífs;“ hann særir vor hjörtu med ástvina missir, svo vér skulum leita oss lækníngar vid huggunarinnar og vonar-

innar uppspretta. Hvør sem nú veitir eptirtekt þessum Drottins áminningum, svo ad hans sálar þørf leidir hann til Guds ords, hann lærir ad yfirvega heil. Ritningu á annann hátt enn fyrr; hann finnur í henni þad, sem hann aldrei ádur fann; mørg grein, sem ádur var hønum myrk og óljós, verdur hønum skiljanleg; þad sem hønum ádur fannst litid umvardandi, verdur hønum mikilvægt; og þad sem hønum fyrr sýndist kjarnalaust verdur hønum nú þýdíngarfullt. Því nema oss húngri og þyrsti, leidist oss jafnvel sú hollasta fæda; og þad er einúngis sálar þørf sú, er vér sjálfir finnum til, sem skal krydda þá andar fædu, hvørja Biblían frambýdur. Svo satt er þad, sem Jesús segir, (Jóh. 6, 44): „Enginn fær til mín komid nema minn Fadir dragi hann." Og hann dregur, áminnir og advarar alla; en, því midur! ad svo margir heyra ecki hans køllun; sælir erum vér, ef vér veitum henni eptirtekt; þá høldum vér oss til þeirrar heil. Ritníngar, sem rádþrota og sorgmæddir leita á vinar fund; og þegar vér sjálfir reynum hvad áreidanlegar ad eru hennar rádleggíngar, og hugsvalandi hennar hugganir, þá leitum vér til hennar aptur og aptur í hvørri neyd, sem ad høndum ber; þá verdum vér æ handgengnari þessum vini og fullvissumst meir og meir um hans trúfesti. Hann verdur oss því æ kærari og ómissanlegri; og jafnvel þó ræda hans þyki holdi og blódi ástundum hørd, og heimurinn jafnvel gjøri gis ad henni, þá látum vér þad ecki fæla oss frá þessum, í raunum vorum svo opt

reynda vini, heldur segjum med Petri: „Herra! til hvørs skulum vér fara, nema til þín? þú hefir ord eylífs lífs." Þennann veg hefir sjálfur Gud vísad oss til ad læra ad skilja hans ord; hvør sem ecki vill fylgja hønum, lærir aldrei ad skilja þad sér til gagns. En þó ad ávalt sé mest komid undir því hugarfari, med hvørju vér lesum heil. Ritníngu, géta samt eptirfylgjandi rád og bendíngar — ad eg vona — þénad gódum kristnum manni bædi til ad gjøra hønum audveldari Biblíunnar réttu brúkun, og líka til ad vara hann vid hennar misbrúkun.

1. Innræt vel hjarta þínu Ritníngarinnar høfud-lærdóma og høfud-bodord, til ad bera saman vid þau annad innihald hennar. Til dæmis þessi: „Gud er Andi, og þeir sem hann tilbidja, eiga ad tilbidja hann í anda og sannleika" (Jóh. 4, 24) „þú skalt elska Drottinn þinn Gud af øllu þínu hjarta, sálu og hugskoti, og náúnga þinn sem sjálfan þig (Matth. 22, 37). Hvør sem nefnir Jesú Kristi nafn, haldi sér frá ránglæti (2 Tim. 2, 19). Sýn mér trú þína af verkum þínum," og svo fr. (Jak. 2, 18). Slíkar greinir Ritníngarinnar þéna, segi eg, sem leidarstjørnur, til ad upplýsa fyrir oss þad, sem er myrkt og þúngskilid. Ef nockud kémur fyrir þig í Biblíunni, sem þér virdist mótstrídandi þessum, svo opt, svo ljóslega og útþryckilega kénnda sannleika, þá mátt þú vera fullviss um ad þú ecki skilur meiníngana rétt; því Gud gétur ecki mótsagt sjálfum sér.

2. Þegar þú les Gamla Testamentið, þá hugsaðu jafnan til þess, að það er fyrst og einkanlegast skrifað handa Ísraels-fólki, og að þetta er ekki nema ljóssins fyrsti morgunroði, sem skyldi boða og undirbúa dagsins komu. Vér megum því ekki lítilsvirða það orð, sem Guð talaði til Feðranna fyrir Spámennina, þó hann tali ljóslegar og kroptuglegar til vor fyrir Soninn. Nei, í Gamla Testamentinu eru fyrirheitin um Krist, og í því Nýa uppfylling þessara fyrirheita; og hvörnin mundum vér géta skilið Jesú og hans Postula kénníngar, nema oss einnin væri kunnugar Mósis og Spámannanna bækur? Og hvilíka gnægð inniheldur ekki G. Test. af lærdómsríkum dæmum, upplífgandi lofsaungum og vísdómsfullum lífsreglum! En ekki megum vér hneixlast á því, þó vér finnum þar ekki svo ljósa von eylífðarinnar, svo edallegar hugmindir um Guð, allra manna Föður, svo hreinann og háleitann kjærleiks lærdóm, sem í N. Testamentinu. Það væri einsog að hneixlast á því, að sólin ekki skín eins skjært um morgun-birtínguna einsog um hádaginn. Vér hljótum því að bera saman innihald G. Testamentisins við Jesú og hans Postula fullkomnari lærdóm, sem eginlega skal vera lífsregla fyrir oss kristna menn. Ef vér gjörum þetta, þá mun einnig lestur Gamla Testamentisins verða oss til mikillrar og sannrar uppbyggingar (2 Tim. 3, 15).

3. Slít aldrei neina grein í Bibliunni frá hennar rétta samanhengi; gæt heldur nákvæmlega að tilefni og tilgángi sérhvörrar greinar eður

rædu. Þegar, til d. Postulinn Páll segir (Róm. 3, 28): „Vér réttlætumst af trúnni án lögmálsins verka,“ þá er hann ad mótmæla þeim hofmód, sem ecki finnur hjá sér neina þörf fyrir Jesú Evangelium. En þegar Jakob segir (Jak. 2, 24): „Vér réttlætumst ecki af trúnni einúngis, heldur af verkunum,“ þá er hann ad mótmæla þeirri hræsni, sem kallar eintóma útvortis játníngu Kristindómsins, trú á Jesum. Þeir brúka þá þetta ord, Trú, í sinni merkíngunni hvör, og mótsegja því ecki hvör ödrum.

4. Samanber þá óljósari stadi Biblíunnar vid adra, sem tala um sama efni, til hvorra vísad er í henni sjálfri; þá finnur þú opt þá upplýsíngu sem þú leitar ad. Ef nockur, til d. skélfist, eins og Jesú lærisveinar, vid þessi ord hans hjá Mattheo, 19, 24: „Hægra er úlfaldanum ad gánga igégnum nálar augad, enn ríkum manni inn í Guds ríki,“ þá samanberi hann hérvid sömu grein hjá Markúsi, 10, 24. hvar þetta ord: „þeir ríku,“ er þannig útlagt: „þeir sem treysta á ríkdóminn,“ og verdur þá meiníngin audskilin þessi: þad er mjögsvo torveldt, og, án Guds adstodar, ómögulegt, ad þeir, sem hafa þessa heims audæfi fyrir sinn afgud, géti slitid sig frá sinni Mammons þjónustu.

5. Les aldrei Biblíunnar bækur blátt áfram eins og fyrir verdur, heldur útvel þér, í hvört skipti, þær bækur hennar, sem þú finnur þig þá hafa mesta þörf á, eptir sinnis ásigkomulagi þinu. En hvörnin skál lesarinn géta fundid þetta, nema hann sé kunnugur innihaldi Biblíunnar? Þad er

hønum ómøgulegt. Þessvegna hlýtur hann einnig, ad svo miklu leiti sem hann gétur, smámsaman ad lesa alla Biblíuna, byrja á þeim audveldustu bókum og halda svo áfram til hinna þúngskildari, frá þeim historisku til hinna annara. Þaraf fær hann ecki einúngis sýn yfir gjörvallt innihaldid, og lærir ad meta þá heil. Ritníngu sem nockurskonar undrunarfulla samanhángandi byggíngu, og sem óvidjafnanlegt verk Guds visdóms og gædsku; heldur þegar hann þá setur vel á sig þær bækur og þau stycki, sem hønum eru til mestrar uppbyggíngar, gétur hann þannig fundid þad sem hann, í hvørt sinn, helzt medþarf sér til leidarvísirs, upplífgunar og huggunar. Sá sem hefir naumann tíma og litlar gáfur, hann lesi í gamla Testamentinu helzt þær audveldustu og kjarnarikustu bækur, svosem 1tu, 2ra og 5tu Mósis bók, Samúels og Kónga-bækurnar, Rúthsbók, Davids sálma og Salómons ordskvidi; en umfram allt, lesi hann aptur og aptur Nýa-Testamentid, sem adal-bók kristins manns; og þaraf mun hann þá skilja allt sem hann þarf ad skilja til ad ná sínum tilgángi; jafnvel í þeim tveimur þúngskildustu bókum þess: bréfinu til enna Hebresku og Jóhannesar opinberunum, mun hann finna mikid sér til uppbyggíngar, ef hann les þær med gudlegu hugarfari.

6. Gleym aldrei, þegar þú les heil. Ritníngu, ad hún er bókasafn, skrifad á lángt ødrum tímum, í ødrum løndum og undir ødrum kríngumstædum, enn þeim vér nú lifum í. Þá mun

oss ecki undra þó vér finnum margt í Biblíunni í því formi og á þann hátt framsært, sem ecki á vid þessa tíma og þessi lönd, edur vora núverandi háttu og sidi. En þad er ogsvo einúngis þad, sem útvortis er, sem umbreitist; andinn edur sannleikinn sjálfur er og verdur ætíd hinn sami. Til dæmis: Fóta-þvotturinn sem Jesús brúkadi vid sína lærisveina var austurlanda sidur; þetta er þad útvortis — bókstafurinn — sem umbreitíngu er undirorpid; en sá audmýktar lærdómur, sem Jesús hérmed géfur oss, ad vér aldrei megum álíta oss of góda til ad þéna jafnvel þeirri lítilmótleguslu manneskja — þetta er andinn, sem aldrei umbreitist. Þad offur sem Jesus heimtadi af hinum ríka únglíngi, (Matth. 19, 21): „Viljir þú vera algjørr, þá sel eignr þínar og géf þær fátækum," var naudsýnlegt fyrir hvørn þann, sem á offsókna tímum vildi vera kristindóms kénnari; en — er þad ecki á øllum tímum heiløg skylda kristinna manna, ad meta Guds ríki meira enn øll tímanleg audæfi? Sú advaran sem Páll gaf þeim kristnu í Korinthuborg (1 Kor. 8), ad ennþótt þeir vissu ad afgudir væru eckért, mættu þeir þó ecki taka hlut í Heidingjanna offurmáltídum, svo þeir hneirkludu ecki þá breisku, — á ecki, eptir bókstafnum, heima hjá oss, þar sem vér ecki lifum á medal heidingja; en — er ecki øllum oss harla naudsýnleg sú advaran sem hér í er fólgin: ad vér ecki megum misbrúka hid kristilega frelsi ødrum til hneirklis, og eigum heldur ad neita sjálfum oss um leyfilegar ánægjusemdir, enn géfa bródur vorum

nockra ásteitíngu. Ad allir þeir sem vilja lifa guð-
lega í Jesú Kristo, muni ofsóktir verda, segir Páll
Postuli ad vísu med tilliti til þeirra tíma, sem hann
lifdi á, sem vóru ofsóknatímar; en, er ecki sífeldt
strid milli ljóssins og myrkursins, Krists og Belials?
Og sama er ad segja um þau í Bibliunni framsettu
dæmi: ad Jóhannes skírari hafdi svo frábrugdinn
lifnadar-máta; ad Postularnir gengu umkríng frá
einni borg til annarar, til ad útbreida Jesú Evan-
gelium, og svo fr. fylgdi af þeirra sérdeilislegu köllun.
En sú sjálfs afneitan, sú stadfesta og trúmennska,
sem þeir létu í ljósi í sinu mikilvæga verki, eiga
einnig ad vera ríkjandi í sálu vorri vid öll vor
verk, hvørsu lítilmótleg sem vera kunna; þvi gáf-
urnar og embættin eru ýmisleg, en hinn sami er
Andinn (1 Kor. 12, fra 4da v.).

7. Fordast þú ad fegra ávirdíngar þínar
med nockru heidarlegu nafni úr Bibliu-sögunni.
Abraham kallast fadir trúadra og Guds vinur; og
hann verdskuldadi þetta heidurs nafn; en var það
ecki, allt fyrir það, ávirding, ad hann taladi ósann-
indi fyrir hrædslu sakir? (1 Mós. b. 12, 11. og
20, 1). Jakob var ad sönnu gudrækinn madur, en
— eru þó ecki þeir prettir, sem hann hafdi í frammi,
(1 Mós. b. 25, frá 20ta v. — 27 og 30) allt-
eins straffsverdir fyrir það? Biblian segir oss frá
þessu, einnig um þá trúndu, til ad minna oss á,
hvørsu naudsýnleg oss öllum er sú andlega árvekni.
Er ecki Davíds stóra hrasan eins lærdómsrik fyrir

oss til vidvörunar, einsog hans mörgu ypparlegu eiginlegleikar eru oss til upphvatningar?

8. Misbrúka þú aldrei Biblíunnar frásögur um furduverk, um Engla opinberanir, sjónir og drauma þannig, ad þú væntir eptir slíkum furdsverkum, eda slíkum sérlegum guddómlegum opinberunum. Þetta er eitt af þessslags hjátrú, sem kémur af vantrú. Ef vér trúum med fullri sannfæringu ad Gud hafi látid sinn Son opinbera oss allt þad, sem vér þurfum ad vita, (Kól. 2, 3. — Post. gb. 20, 27), hvernin gétum vér þá vænt nockurrar nýrrar opinberunar? (Gal. 1, frá 6ta v.) — og ef vér trúum því, sem Jesús sjálfur fullvissar oss um, Matth. 11, ad hann hafi gjört sín kraptaverk á þeim blindu, höltu, sjúku og daudu, einúngis til ad sanna ad hann væri af Gudi sendur, hvernin kunnum vér þá, í líkamlegum efnum, vænta eda óska kraptaverka af Gudi? — Nei! þad kallar Jesús sjálfur ad freista Drottins, Matth. 4, 7. Samt koma þau hér géfnu rád og vidvaranir þeim einum ad notum, sem lesa heil. Ritníngu med því ádur útmálada gudlega hugarfari; ef þad vantar, gétur enginn leidarvísir til réttilegs Biblín-lesturs bætt upp þann brest. Engin manneskja gétur géfid oss þad audmjúka, þad trúada, þad sonarlega hugarfar, med hverju Guds ord á ad brúkast; nei, vér hljótum med trúndum hjörtum ad bidja Gud um þann himneska visdóm, sem þá veitir oss hann fúslega, og frávísar engum, (Jak. 1, frá 5ta v.). Fylg stöduglega þessum vegi, kristinn madur! þá

mun Biblían verda þér kær; þú mátt ecki vonast eptir ad þú gétir metid Biblíunnar dýrmæta innihald svo mikils, sem vera ber, strax sem þú fyrst litur í hana. Enginn madur hefir ordid vinur vor, þó vér einúngis heilsudum hønum, edur heimsæktum hann í eitt skipti; nei, vid støduga umgengni med hønum fengum vér þeckt fleira og fleira gott hjá hønum; einkanlegast í mótgángi, sem er prófsteinn hins réttskickada hugarfars, lærdum vér ad meta mikils trúfesti hans, og þá fyrst fórum vér ad binda fastann vinskap vid hann. Þannig géck þad einnig til fyrir þeim, sem lærdu ad elska Guds ord; þeir ecki einúngis lásu, heldur og lika rannsøkudu þad, — eins og þeir í Beróea fordum gjørdu, (Post. gb. 17, 10. 11.) — og þá fundu þeir meir og meir fjársjódu þess eylífa vísdóms, sem fólgnir eru í heil. Ritningu. Þessi vinur inntók hjørtu þeirra meir og meir; hann vard þeirra huggun í sorginni, þeirra advørun í háskanum, þeirra athvarf í neydinni, einnin þeirri sídurstu, þá øll mannleg hjálp þrýtur. Ef þú þá máské, af eigin reynslu, þeckir enn litid Biblíunnar mikilvæga dýrmæti, þá settu þvílikra kristinna dæmi mót veraldarinnar dómum; séu þessi vitni færri, þá er þó þeirra vitnisburdur því gildari, þar þeir þeckja sjálfir þad sem þeir vitna. Fylgdu þeim eptir med hugprýdi; þá munt þú vissulega, einsog þeir úr Samaría, sem eptir konunnar áeggjan komu til Jesú, (Jóh. 4, 28. 29. 42), þá munt þú ásídan, þegar þér er ordinn vel kunnugur Biblíunnar andi, sagt géta: Nú trúi eg ecki lengur fyrir annara

vitnisburd, heldur hefi eg sjálfur heyrt og lesid, og veit med vissu, ad í Biblíunni er sannarlega ad finna þad lífsins ord, sem er oss er af Gudi géfid til frelsis. Gud leidi alla réttsinnada Biblíulesendur, med ljósi síns Anda, til þessara eigin reynslu! Amen!

---

